# MERKILEGUR

# TRÚLOFUNARDAGUR.

TRYGGÐAPANTUR

í

TILHUGALÍFI.

Frá

ÁBYRGÐARMANNI ÞJÓÐÓLFS.



**Reykjavík.**

Prentaður í prentsmiðju Íslands

1851.

## Festarölið og hjúskaparsáttmálinn.

„Hamingjan hjálpi oss! enn hvað allt er orðið umhverft í heiminum!“ sagði herra Pjetur, og grýtti tóbaksdósunum á borðið. „Eggið þykist vera vitrara, en hænan; og faðirinn getur ekki ráðið við börn sín, hvað vel sem hann vill þeim, svo hann verður með harðri hendi að neyða þau til að ganga að gæfukostunum! Jeg hef ekki fleiri orð um það, Finnur sæll, þú skalt eiga konu þá, sem jeg hef kosið þjer, og vertu við því búinn í kveld, að rita nafn þitt undir hjúskaparsáttmálann, því þá ætla jeg að drekka festaröl ykkar hjónaefnanna!“

Finnur ætlaði að svara þessum orðum föður síns; en hann stökk þá upp í bræði, hratt Finni, án þess að mæla eitt orð, með

báðum höndum út úr stofudyrunum, og skelldi hurðinni í lás á eptir honum.

Finnur gekk þá hryggur inn í svefnhús sitt, ritaði föður sínum langt og viðkvæmt brjef, og játaði þar fyrir honum það, sem hann áður hafði leynt hann; sagði hann honum, að hjarta sitt væri öðrum háð, því að hann væri trúlofaður fátækri, en vænni stúlku. En tilraun þessi var árangurslaus. Faðir hans sendi um hæl brjefið frá sjer óuppbrotið, fór síðan með mesta áhuga að búa festarölið, og þegar á leið daginn tóku boðsmennirnir að ríða í hlaðið, og meðal þeirra herra Páll með dóttur sinni Ingunni, er búin var brúðarskarti.

Höfðingsmennirnir Pjetur og Páll höfðu í 20 ár búið í sömu sókn, og haft mikil viðskipti og vinskap saman; voru þeir optast á eitt sáttir, og höfðu lengi ráðið mestu um flest mál í sveitinni. Ingun var einbirni Páls, og Finnur einkasonur Pjeturs. Báðir voru þeir orðnir gamlir, og höfðu þegar í mörg ár verið ekkjumenn. Ein-

hverju sinni, er herra Páll var að heimboði hjá Pjetri kaupmanni, bundu þeir það með sjer, að gipta saman börn sín. Kom hvorugum það til hugar, að börnunum kynni að lítast á annan veg. Þess vegna brá herra Pjetri mjög í brún, þegar Finnur skoraðist undan ráðahag þeim, sem hann hafði ætlað honum. Ingun þar á móti hafði engin mótmæli að taka ráðahag þessum; og var það að vonum, því að bæði var Finnur efnilegasti maður til sálar og líkama, og svo átti hann von í að erfa enn meiri auð, en Ingun sjálf.

Ingun Pálsdóttir hafði nýlega haldið afmælisdag sinn með fjölmennu boði. Var þá kallað, að hún hefði tvo um tvítugt, jafnvel þó Þórður djákni, sem var í veizlunni, hvíslaði því að kunningjum sínum, að kirkjubókin segði, að Ingun hefði einn um þrítugt. Og engum, sem virti Ingunni fyrir sjer, gat komið til hugar að vefengja sögusögn bókarinnar, því að margur hefði orðið til að trúa henni, þó hún hefði bætt einum tug við. Það var þess

vegna mjög svo óviðfeldið að sjá, hvernig Ingun, sem í rauninni var ófríð, og var nú heldur farin að fölna, bjó sig eins og unglegasta blómarós. Einungis prjálið, sem hún tildraði utan á sig, og einhver hlæileg tilgerð, sem hún hafði við sig, hefði verið fullkomin orsök til að gjöra Finn, sem var gætinn og alvörugefinn, frábitinn henni með öllu, þó að aldrei hefði annað verið, sem snjeri huga hans frá henni.

Feður þeirra, Pjetur og Páll, voru þegar fyrir löngu búnir að semja með sjer um festarskilmálana, og höfðu fengið Þórð gamla djákna til að hreinskrifa þá og fullgilda. Þórður var kallaður einhver hinn bezti skrifari og stílisti í sýslunni, og var af mörgum hafður til þess konar starfa; enda hafði hann um æfi sína ritað mörg slík skilmálabrjef, án þess þó ætíð að stofna með þeim gæfusamlegan hjúskap. Ekki var það samt honum að kenna, þó að skilmálabrjef þessi yrðu opt tilefni, til að spilla samlyndi hjóna og öllum heimylis friði; því aldrei skrifaði Þórður annað en

það, sem fyrir hann var lagt, ekki einn bókstaf of eða van. Með þeirri nákvæmni hafði hann líka hreinskrifað skilmála þeirra Pjeturs og Páls, og nú kom hann með þá um kveldið ásamt með boðsmönnunum, og afhenti þá á heilli örk í embættisbrjefa broti.

Nú voru boðsmenn allir komnir, og settust utan um kringlótt borð í stofunni, þar er ýmislegt var fram reitt til að eta og drekka. Einungis vantaði enn einn í hópinn — og það var brúðguminn sjálfur. Hann sást hvergi. Herra Pjetri var farið að lengja eptir honum, og leit opt fram að dyrunum; loksins stóð hann upp frá borðinu, og skundaði upp á lopt, þar er sonur hans átti herbergi; sat hann þar þá í hversdagsfötum sínum, studdi hönd undir kinn, og horfði í gaupnir sjer.

„Hvað á nú þetta að þýða? Því kemurðu ekki?“ segir faðir hans með ofboði. „Brúðurin er komin, djákninn er kominn, skilmálarnir eru fullgjörðir!“

„Jeg get ekki skrifað undir þá“, segir

Finnur í hálfum hljóðum. „Jeg særi yður um það, faðir minn, að heimta það ekki af mjer; neyðið mig ekki til þess að neita yður opinberlega í þessu máli um þá sonarlegu hlýðni, sem þjer getið óhræddur af mjer vænt í öllum öðrum efnum! Ef þjer skipið mjer, þá fleygi jeg mjer heldur í logandi eldinn, en í faðm þeirrar konu, sem þjer hafið ætlað mjer"!

„Þú ert undarlegur maður!" svarar faðir hans þurt og kalt; „þú lætur eins og verið sje að bjóða þjer eitthvert afhrak!"

„Mjer er ekki annað hægt, jeg get ekki tvískipt hjarta mínu", segir Finnur; „þjer hefðuð þó að minnsta kosti átt að lesa brjefið það í dag; þar játaði jeg það fyrir yður, sem jeg hvorki vil nje má lengur dylja. Jeg elska væna stúlku, en fátæka og föðurlausa. Hún heitir Guðfinna Grímsdóttir."

Pjetur gamli rjeði sjer ekki fyrir reiði, er hann heyrði þetta. Til þess gat hann ekki hugsað, að hann skyldi eignast fátæka tengdadóttur. Hann tók nú á öllu

því sem hann hafði til; en Finnur sat við sinn keip, hvernig sem hann ljet; og þó að hann ljeti ekki undan föður sínum í þessu, þá auðsýndi hann honum eigi að síður alla sonarlega virðingu. Loksins varð herra Pjetur að hverfa aptur til gestanna við svo búið; stóð hann stundarkorn fyrir utan stofudyrnar, til að láta renna af sjer mesta ofboðið, sem á hann hafði komið, svo að sem minnst skyldi bera á þessu. Síðan gekk hann inn, og sagði, eins og ekkert hefði ískorizt: „jeg bið yður, góðu vinir, að fyrirgefa það, þó að sonur minn komi ekki. Það er svona unggæðisskapurinn! Hann brá sjer bæarleið snemma í morgun lítt klæddur, hefur svo fengið kölduflog, og kemst varla úr rúminu í nokkra daga.“

Boðsmönnunum fjellst mikið um, er þeir heyrðu þetta; og Ingun Pálsdóttir hljóp upp með háhljóðum, og vildi fara að vitja um sjúklinginn. En faðir hennar hljóp á eptir henni með ólundarsvip, náði í hana og leiddi hana aptur til sætis.

Páli umboðsmanni leizt annars ekki á þetta orð „kölduflog“, og minntist þess þegar, að hann hafði aldrei sjeð Finn gefa Ingunni *hýrt* auga, eða sýna henni *hlýlegt* viðmót. Það var að vísu um seinan að sjá þetta þá fyrst, þegar festar skyldu fram fara. En það hafði ekki verið svo hægt, að verða þess var áður. Finnur og Ingun höfðu að undanförnu sjaldan sjest nema við kirkju, og aldrei átt tal saman, nema ef svo bar við, þegar þeim hafði verið boðið í veizlur, þar sem þá var fyrir gleði og glaumur; enda hafði þeim aldrei til hugar komið, að bindast saman ástar- eða hjúskaparbandi. Af hjúskaparskilmálum þeim, sem feður þeirra höfðu forðum gjört í heimboðinu, fengu þau ekki fyr að vita en sama daginn, sem ráðahagurinn var fyrst borinn undir atkvæði þeirra, og þau skyldu þá þegar um kvöldið sjálf skrifa undir skilmálana. Feður þeirra ætluðu sjer með þessu bragði, að binda fljótan enda á málið, hvort sem þau hefðu nokkurn ástarhug hvort til annars, eður ekki.

Þegar nú þetta álitlega ráð fórst svona óhappalega fyrir, að minnsta kosti í bráð, þá fjellst herra Páli mikið um það, því að hann áleit, að dóttir sín hlyti mest að missa í við það. Fyrir óánægju gat hann því ekki tekið neina hlutdeild í glaðværð og samræðum hinna gestanna, heldur horfði með ólundarlegum svip ýmist á stundaklukkuna, og ýmist þangað, sem hann hafði lagt af sjer hattinn sinn og keirið. Sumir af gestunum, sem höfðu hugsað sjer að gleðja sig í veizlunni fram eptir nóttinni, var illa við auga það, sem Páll gamli gaf klukkunni og keirinu, er þeir hjeldu, að hann þá og þá mundi rjúka af stað. En húsbóndinn herra Pjetur strauk hrukkurnar úr enni vinar síns, og sagði með mestu glaðværð, að þeir mættu ekki láta það spilla fögnuðinum, þó svona óheppilega hefði til tekizt. Það er þess meiri þörf á því, sagði hann, að vjer höldum hóp fram eptir kveldinu, og drekkum samhuga heillaóskir og heilsubót sjúklingnum til handa.

Herra Páll ljet sjer það segjast, og

var nú vel drukkið um kveldið og mælt fyrir skálum; en eigi breyttist fyrir það hugur Finns, nje hvarf frá honum kaldan. Daginn eptir, þegar faðir hans sá, að Finnur ætlaði að fara sínu fram, skildi hann borðhald við hann, bannaði honum að koma fyrir augu sín, og hótaði að gjöra hann arflausan. Þessa hótun áleit kaupmaðurinn svo sem hina óttalegustu þrumurödd, er hann gæti látið ríða syni sínum um eyru; og hann furðaði mjög á því, er hann sá honum alls ekki bregða við hana; en þess var raunar engin von, því að Finni gat ekki komið til hugar, að vilja skilja við unnustu sína fyrir nokkra veraldarmuni. En ósamlyndið, sem hann út af þessu var kominn í við föður sinn, er hann annars bar sonarlega virðingu fyrir, hafði svo sært hans viðkvæma hjarta, að hann lagðist veikur.

„Fari hann til læknisins!“ sagði þá faðir hans reiður, þegar hann heyrði, hversu komið var. Annað skipti hann sjer ekkert af sjúkleika sonar síns.

Lækninn sá fljótt hvað að Finni gekk, að sjúkleiki hans var mestur á sálunni; og þar eð hann var aldavinur föður hans, þá hugsaði hann sjer að reyna, að fá hann til þess að vægja til við soninn, því hann sá, að það eitt megnaði að græða hans særða hjarta. Lækninum tókst það líka, þó erfitt gengi; en því fylgðu miklir afarkostir.

„Jeg fyrirgef honum þrjózku hans", sagði herra Pjetur, „og hann má gipta sig, þegar hann vill! En aldrei skal hann láta konu sína koma fyrir mín augu; og hvort sem jeg lifi eða dey, þá þarf hann einkis að vænta frá minni hendi". Eptir langar umræður var þetta á endanum úrslitið.

Þegar Finnur heyrði þetta, hresstist hann til muna, fór þegar á fætur, skundaði til föður síns og þakkaði honum fyrir. „Þú getur nú haft það eins og þú vilt", sagði faðir hans. „En það segi jeg þjer fyrir satt, að jeg ætla mjer ekki að fleygja út eigum mínum, sem jeg með súrum sveita

hef saman dregið, í annan eins búskap og þú ætlar að stofna“.

„Jeg fer með gleði á mis við allan auð yðar“, svaraði sonurinn. „Jeg tel mig fullríkan, fyrst jeg hef fengið aptur föðurhylli yðar“.

„Fögur orð og framar ekkert!“ svaraði Pjetur gamli. „Þú værir betur farinn, ef þú hefðir viljað taka ráðahagnum, sem djákninn var búinn að ganga svo vel frá í alla staði. — Farðu nú“, sagði hann bistur, „farðu til djáknans með unnustu þína, og láttu hann rita svo góða skilmála á milli ykkar, sem kostur er á! En jeg er hræddur um, að þeir verði fjandans magrir!“

„Þjer hæðist að þessu, faðir minn!“ svaraði sonurinn blíður í máli. „En jeg mun gjöra alvöru úr því“.

Síðan hneigði hann sig fyrir föður sínum og gekk burt. En faðir hans hló á eptir honum hæðilega og illilega.

Nokkrum dögum síðar kemur Þórður djákni til herra Pjeturs. „Jeg áleit það

skyldu mína, herra minn góður", segir hann, „að láta yður vita, að sonur yðar kom til mín í dag, og spurði, hvenær hann mætti koma með unnustu sína, einhverja Guðfinnu Grímsdóttur, til þess að jeg hreinskrifaði festarskilmála á milli þeirra. Það datt ofan yfir mig. — Og þar eð jeg ekki fyrir nokkurn mun vil gjöra neitt, sem yður er á móti". —

„Fyrir alla muni skrifið þjer það, sem hann biður um, heimskinginn svarni", sagði herra Pjetur. „Hann hefur neytt mig til að samþykkja þennan ráðahag sinn. Annars kvað stúlkan vera lagleg og væn. En það skil jeg ekki, hvernig þau, aumingjarnir þeir arna, ætla að gjöra nokkra skilmála á milli sín, því að jeg hef sagt syni mínum, að jeg ætli að gjöra hann arflausan."

„Arflausan"? sagði djákninn, og dró á eptir sjer orðið. „Þjer hafið gefið samþykki yðar til ráðahagsins, stúlkan hefur óflekkað mannorð; og þó að gjöra manninn arflausan? Jeg hef að sönnu ekki vit

á því; en þó hygg jeg, að lögin heimili ekki slíkt.“

„Lögin“? segir herra Pjetur, „ríkir ráða lögum sjálfir.“

„Við skulum ekki þrátta um þetta, herra minn!“ sagði djákninn. „Mjer nægir að festarskilmálarnir mega fram fara með yðar leyfi. Og í þeirri von sagði jeg hjóna-efnunum að koma til mín í kveld milli nóns og miðaptans.“

„Það verður svo að vera“, sagði herra Pjetur, og djákninn kvaddi.

Herra Pjetur fór nú að hugsa betur um þetta mál, og íhuga ástæður þær, sem djákninn hafði fært á móti því, að hann gæti gjört son sinn arflausan; gat hann í rauninni ekki betur sjeð, en að djákninn hefði satt að mæla. Hann sagði þá við sjálfan sig: „jæja, jeg er þá líka sjálfur í vanda staddur! vilji jeg vera sjálfum mjer samkvæmur, þá get jeg ekki tekið aptur samþykki mitt til ráðahagsins; og þegar jeg gæti vel að öllu, þá segi jeg fyrir mig, að jeg hefði aldrei getað átt fyrir konu aðra eins

tilgerðarskjóðu og Ingun er. Þar á móti heyri jeg alla hrósa Guðfinnu, sem þekkja hana. Það er verst að hún er svo bláfátæk! En mig langar samt til að sjá hana. Augun eru þó alltjend tollfrí, segja menn".

Eptir þetta lætur herra Pjetur söðla hest sinn, og ríður þegar til Þórðar djákna. Finnur var þá líka farinn að heiman til unnustu sinnar. Þegar herra Pjetur kemur í hlaðið, gengur djákninn út á móti honum, og býður honum inn. „Það er eyrindi mitt til yðar, segir herra Pjetur, að mig langar til að sjá tengdadóttur mína tilvonandi; og bið jeg yður að lofa mjer að standa í einhverju horninu, þar sem ekki ber mikið á mjer."

„Það er guðvelkomið", segir djákninn, „og megið þjer í mínum húsum vera, eins og heima hjá yður; skuluð þjer vera þarna inn í svefnhúsinu, og horfa í gegnum skráargatið, þegar sonur yðar kemur hingað inn með konuna."

Litlu síðar koma hjónaefnin, og leiðir djákninn þau til stofu. Guðfinna var í

blóma æsku sinnar, 18 ára gömul, einhver hin fríðasta stúlka; og leiddi djákninn hana til sætis gegnt skráargatinu. Herra Pjetur virti stúlkuna fyrir sjer, og leizt afbragðs vel á hana; fannst honum þó ekki eins mikið um andlitsfegurð hennar, eins og um það, hversu hún var tilgjerðarlaus í öllu látæði og klæðaburði; og hugsaði hann, að aldrei mundi hún setja mann sinn út á húsgang með óþarfa prjáli.

„Við erum þá hingað komin, djákni minn góður!“ tók Finnur til máls, til þess að biðja yður að hreinskrifa og staðfesta skilmála nokkra, sem við höfum gjört á milli okkar. Jeg held nú samt, að þjer hlæið að okkur fyrir, því að skilmálar þessir munu vera ólíkir þeim, sem þjer hafið hingað til átt að venjast. Eigi að síður knýja mig vissar orsakir til þess að sýna föður mínum á skjali, sem þjer hafið ritað og staðfest, það hugarfar og þær lífsreglur, sem við ætlum að ganga með inn á brúðarbekkinn.“

„Jeg skal gjöra allt, eins og þjer segið fyrir“, svarar djákninn.

„Gjörið þá svo vel“ segir Finnur, og dregur skjal upp úr vasa sínum, „og lesið upp þessa skilmála.“

Þórður djákni setti upp gleraugu, hóstaði og ræskti sig, svo að allir gætu heyrt. Síðan las hann með snjallri röddu:

1. gr. Við elskum hvort annað af hjarta, og finnum, að við getum ekki lifað ánægð á þessari jörðu, nema við náum saman; þess vegna bindum við með okkur órjúfanlegan hjúskaparsáttmála.

2. gr. Finnur helgar Guðfinnu allt sitt líf, með því það skal vera stöðug viðleitni hans, að gjöra henni lífið ánægjusamt og gleðilegt með iðjusemi og skildurækt.

3. gr. Guðfinna kappkostar aptur á móti að sínu leyti, að gjöra honum lífið svo ánægjusamt, sem unnt er, með þrifnaði og sparsemi í allri heimilisstjórn.

4. gr. Af því að smámunir geta opt í hjúskaparlífinu verið orsök til mikillar sundurþykkju, þá skuldbindum við okkur

til þess, að láta hvort undan öðru í öllum smámunum umtölu- og mótmælalaust.

5. gr. Í klæðaburði lagar sig hvort eptir annars skapi. Finnur vill ekki vera of hirðulaus og húsgangslegur í klæðaburði, til þess að meiða ekki fegurðartilfinningu Guðfinnu; og Guðfinna skal forðast að gefa tilefni til þess með nokkru prjáli, að maður hennar safni skuldum að óþörfu. Okkar aðalskart skal vera þrifnaður, því að óþrifnaður vekur óvild og ýmigust á milli þeirra, sem saman eiga að búa.

6. gr. Þessi herralegu orð: *það skal, jeg heimta, jeg skipa,* skulu aldrei við hafast á okkar heimili.

7. gr. Guðfinna skal aldrei í neinu samkvæmi láta þess sjást hinn minnsta vott, að hún lítilsvirði mann sinn; því að sú kona, sem gjörir það, gefur með því öðrum karlmönnum von um, að hún taki ástarhótum af þeim.

8. gr. Finnur skal heiðra Guðfinnu á mannamótum, svo aðrir virði hana líka. Og aldrei skal hann með neinum atlotum,

sem gagnstæð eru siðsemi og kurteysi, gefa öðrum konum tilefni til að hælast um yfir henni.

9. gr. Bæði skulum við vera varkár í vali vina vorra, og aldrei binda vináttu við óheila menn og slæga, því að þeir spilla friði á hverju heimili, eins og höggormur í brjósti manns.

10. gr. Okkar á milli er enginn munur á mínu og þínu, allt er sameiginlegt; en æðsta og bezta sameign okkar er elskan í brjóstum vorum; og þessi fjesjóður, sem tímalengdin afmáir svo opt úr hjörtum annara, skal hjá oss eflast og aukast með ári hverju allt til okkar endadægurs.

„Mikil guðsbörn eruð þið!“ kallar nú djákninn, er hann hafði lesið skjalið á enda; og viðkvæm gleðitár hrundu niður af kinnum hans. „Jeg er viss um, að faðir yðar fagnar í hjarta af svo augljósum vott um yðar ágæta hjartalag.“

„Það segið þjer satt!“ sagði herra Pjetur, sem lauk nú upp stofunni og gekk inn til þeirra. Hjónaefnunum varð hverft við, og

horfðu þau á hann með undrun. „Finnur minn góður!“ segir faðirinn og leggur faðminn utan um hann, „öll óvild okkar á milli sje afmáð og gleymd! Jeg gef glaður samþykki mitt til þessa ráðahags, og tek með ánægju þessa fríðu og kurteysu stúlku í dóttur stað.“

Þau Finnur og Guðfinna þökkuðu þessa óvæntu föðurmildi með þegjandi gleðitárum. Finnur vildi nú taka aptur skjalið, því að hann sagði, að þess þyrfti ekki framar með. En djákninn vildi ekki sleppa því. „Lofið mjer“ sagði hann „að rita það í kirkjubókina, því það er sómi fyrir mig og sönn ánægja, að hreinskrifa og staðfesta svo hjartnæma festarskilmála, sem ættu að vera fyrirmynd allra annara.

## Girnd og ást.

Varaðu þig, maður, á ginningum ástarinnar, og láttu hana ekki leiða þig á girnðaveg sinn.

Girndarbruninn skal slökkva sitt eigið

bál, og hans blinda æði skal steypa þjer í glötun.

Opna þess vegna ekki hjarta þitt fyrir hans tælandi ginningum, og láttu ekki hans villandi töframagn leggja fjötra á sálu þína.

Heilsulindin, sem unaðarstraumurinn verður að renna frá, skal fljótt þorna, og allar gleði uppsprettur tæmast.

Ellin skal yfir þig koma í æsku lífsins, og æfisól þín undir ganga að morgni daga þinna.

En þegar skírlífi og siðsemi prýðir fegurðina, þá er ljómi fríðrar konu fegri en stjörnurnar á himninum, og það tjáir ekki að spyrna á móti hennar hrífandi afli.

Brjóst hennar er hvítara en mjöllin, og bros hennar inndælla en rósin í aldingarðinum.

Auga hennar er saklaust eins og dúfunnar, hreinskilni og sannleiki býr í hjartanu.

Koss hennar er sætari en hunang, og ununarfullan ylm leggur út af vörunum.

Lokaðu ekki hjarta þínu fyrir hinni saklausu og viðkvæmu ást; hennar hreini logi skal skíra upp sálu þína, og gjöra hana hæfa til að taka á móti sælustu áhrifum.

## Ávarp.

### *1. Til piltanna.*

Giptu þig, maður, og gjörðu eins og guð hefur boðið: festu þjer konu, og vertu nytsamur í fjelaginu.

En hugsaðu þig vel um áður, og vertu ekki fljótráður í því efni; því undir konuvalinu er komin gæfa þín og barna þinna á síðan.

Eyði hún miklum tíma til að búa sig í skart; þykist hún af fegurð sinni, og vilji hún láta hæla sjer; hlæi hún hátt og tali mikið; uni hún ekki heima í föðurhúsum, og líti hún með frekju eptir karlmönnum, þá láttu þjer ekki finnast til um fríðleik hennar, þó að hún sje eins fögur og sólin á himnum; snú fæti þínum frá förum

hennar, og láttu ekki ginningar ímyndunaraflsins villa sjónir fyrir sálu þinni.

En þegar þú finnur viðkvæmt hjarta með viðfeldum siðum, gáfaða sálu í gjörfuglegum líkama, þá láttu þjer lítast á þá konu, og taktu hana heim til þín; hún verðskuldar að vera unnusta þín, förunautur þinn í lífinu og ástkær kona.

Æ, elskaðu hana eins og blessan, sem þjer er af guði gefin. Ávinn þjer ást hennar með blíðri umgengni.

Hún er hússmóðirin á heimili þínu, auðsýndu henni þess vegna virðingu, svo að hjúin hlýði henni.

Settu þig ekki án þarfa á móti því, sem hún hefur ánægju af; hún tekur hlutdeild í áhyggjum þínum, lofaðu henni þess vegna líka að taka hlutdeild í unaðsemdum þínum.

Lagfærðu bresti hennar með hógværð, og heimtaðu ekki af henni hlýðni með harðneskju.

Trúðu henni fyrir leyndarmálum þín-

um, ráð hennar eru holl og skulu reynast þjer vel.

Vertu trúr konu þinni, því að hún er móðir barna þinna.

Þegar sorg og sjúkleiki sækir hana, þá mýktu hugarangur hennar með viðkvæmri ástúð; viðkvæmt og ástríkt augnatillit af þjer ljettir harmi hennar og heptir sorg, og hjálpar betur en 10 læknar.

Íhugaðu, að hún er veik af sjer og ekki fær fyrir miklu, og taktu ekki hart á ístöðuleysi hennar, heldur minnstu þíns eiginn vanmáttar.

Þegar þú verður faðir, þá gættu þess hve áríðandi það starf er, sem þjer þá er trúað fyrir; það er skylda þín að annast það afkvæmi, sem þú hefur getið af þjer.

Það er undir sjálfum þjer komið, hvort barnið, sem þú átt, verður þjer til blessunar eða bölvunar, þarfur eða óþarfur limur í fjelaginu.

Lagaðu það snemma með áminningum, og útbú sálu þess með undirstöðu sannleikans.

Taktu eptir tilhnegingum þess, leiddu það á rjettan veg í æskunni, og láttu engan vondan vana festa rætur hjá því með aldrinum. Þá skal það vaxa upp eins og trje á vatnabökkum, og það skal hefja höfuð sitt yfir eikurnar í skógunum.

Andvaralaus sonur er föður sínum til brígzlis; en ráðvandur sonur er heiður fyrir hærur hans.

Þú átt sjálfur akurinn, láttu hann þess vegna ekki vanta ræktun; þú skalt sjálfur uppskera það sæði, sem þú sáir í hann. Vendu hann á hlýðni, og hann mun blessa þig; kenndu honum siðprýði, og hann skal aldrei verða þjer til minnkunar. Innrættu honum þakklátsemi, hún ávinnur honum velgjörninga; mannelsku, hún færir honum mannhylli.

Uppal hann í bindindi, svo að hann verði heilsuhraustur; í vizku, svo að hann verði gæfusamur.

Kenndu honum rjettlæti, og allur heimurinn skal heiðra hann; hreinskilni,

svo að hjarta hans hafi ekkert að ásaka hann fyrir.

Æfðu hann í iðjusemi, og efni hans skulu vaxa; í góðgjörðasemi, og ágæti hans skal eflast.

Kenndu honum vísindi, svo hann verði nytsamur í lífinu; uppfræddu hann í trúarbrögðunum, svo að hann verði sæll eptir dauðann.

## 2. *Til stúlknanna.*

Ljáðu, fríð stúlka, fús eyru áminningum spekinnar, og festu þjer djúpt í hjarta boðorð sannleikans, þá skulu kostir sálarinnar bera nýjan ljóma á líkamsatgjörfi þitt, og fegurð þín fá haldið yndisleik sínum, eins og rósin, þó að blómið sjálft sje fölnað og fallið af.

Þegar allir stara á þig með undrun í blóma æsku þinnar, þá hlustaðu með gát á þeirra ginnandi orð; hafðu vakandi gætur á hjarta þínu, og gefðu engan gaum að táldragandi smjaðri þeirra.

Mundu eptir því, að þú ert sköpuð

til skynsamlegs samlífis með bónda þínum, en ekki til að þjóna lostagirnd hans.

Hvor er sú, sem getur unnið hjarta karlmannsins, neyðir hann til að elska sig, og náir að drottna í brjósti hans?

Sko, hún gengur þarna, blómarósin, með sakleysið í sálunni og siðprýðina á svipnum!

Hönd hennar starfar að vinnu, og fótur hennar hefur eigi ánægju af útgöngum.

Hún er þokkalega búin, því að hún er uppalin við sparsemi; lítillæti og hógværð er sú heiðurskóróna, sem skín á höfði hennar.

Málfegurð býr á tungu hennar, og sætleiki hunangsins streymir út af vörunum.

Í öllu hennar orðalagi lýsir sjer kurteysi, sannleiki og blíða er í svörum hennar.

Eptirdæmi hennar kennir lítillæti og hlýðni. Friður og farsæld er hennar umbun.

Forsjálni fer á undan henni, og dyggðin gengur við hennar hægri hlið.

Viðkvæmni og blíða tala út úr augunum, en kurteysin situr með sprota á enninu.

Tunga hins andvaralausa verður mál-

laus í viðurvist hennar, því að vandlæting hennar og kurteysi skipa honum að þegja.

Þar sem rógburður drottnar, og sjerhver tunga særir mannorð nábúans, þar þegir hún, nema viðkvæm mannelska þrýsti henni til að tala.

Í hjarta hennar býr ekki annað en gott, og þess vegna getur hún ekki ætlað neinum íllt.

Sæll er sá maður, sem fær hana fyrir konu, og það barn, sem kallar hana móður!

Hún stjórnar á heimilinu, og þar er friður; hún skipar fyrir með hyggindum, og henni er hlýtt.

Hún rís árla úr rekkju, hugsar um skylduverk sín, og úthlutar sjerhverjum hæfilegt starf.

Það er ánægja hennar að hugsa fyrir heimilinu, enda leggur hún allt í sölurnar fyrir það; og hús hennar er þokkalegt, en þó viðhafnarlaust.

Hennar skynsamlega hússtjórn er sómi fyrir bónda hennar; og hann hlustar á hrósið um hana með þegjandi ánægju.

Hún fyllir sálu barna sinna með speki, og lagar siðferði þeirra með sínu eigin dæmi. Eitt orð af munni hennar er lögmál fyrir hina ungu, augnatillitið eitt skipar þeim að hlýða.

Hún talar og hjúin hlaupa, hún bendir og verkið er þegar búið; því að lögmál kærleikans er í hjörtum þeirra, og blíða hennar gjörir fætur þeirra fleyga.

Í meðlæti er hún ekki þóttafull, og í mótlæti græðir hún raunasár sín með þolinmæði.

Hún ljettir áhyggjunum af bónda sínum með góðum ráðum, og sykrar honum sorg lífsins með blíðu sinni; hann úthellir líka raunum sínum við brjóst hennar, og fær hugsvölun.

Sæll er sá maður, sem fær hana fyrir konu, og það barn, sem kallar hana móður!

## Úr brjefi

*frá piltunum tit stúlknanna.*

Ef þjer, stúlkur góðar! hlýðið ráðum vorum, sem vjer nú gefum yður af góð-

um huga, þá skuluð þjer hafa ánægju af hjónabandinu, og menn yðar á síðan verða góðir makar. Fyrst og fremst skuluð þjer stjórna ímyndun yðar og hugmynd um hjúskaparlífið, svo að þjer ekki gjörið yður of glæsilega von um það, eða búist við ómengaðri ánægju í því; og þegar þjer komist að raun um, að margt er þar öðru vísi, en þjer ætluðuð, þá reynið að sönnu til að bæta úr því, eins og unnt er, svo að yður geti líkað allt sem bezt; en hugsið aldrei til þess að vilja leiða og lokka menn yðar. Reynið ekki til þess með neinum kænskuráðum að snúa þeim eptir vild yðar, því, ef þeir komast að því, þá trúa þeir yður ekki; heldur skuluð þjer ávallt fara að þeim með blíðu, hreinlyndi og virðingu. Gætið þess, að beztu ektamakar eru þó aldrei nema menn, og engu síður en sjálfar þjer, undirorpnir villu og veikleika. Þegar þjer þá verðið varar einhvers í lunderni eða háttalagi manna yðar, sem þjer áttuð ekki von á, og yður geðjast ekki að, þá látið eins og þjer sjá-

ið það ekki, og látið það ekki á yður festa; en reynið til að bæta úr því sem bezt má verða, með því að auðsýna þeim virðingu, tillhliðrunarsemi og góðlyndi. Kastið þeim því aldrei í nasir, að þeir sjeu orsök í einni eður annari armæðu, sem leiðir ósjálfrátt af eðli og ásigkomulagi lífsins; það er sú byrðin, sem hvor makinn á að hjálpa öðrum til að bera, af því það er beggja sameiginlegt hlutfall. Í stað þess þá að mögla, og tala um hlutinn með særandi orðum og athugasemdum, þá takið hlutdeild í böli lífsins með mönnum yðar; mætið hryggðinni með glaðværum svip, þá verður yður báðum auðveldara að hrinda í burt harminum. Þess vegna útbjó náttúran konuna með viðkvæmni og blíðu, að hún ætlaði henni að blíðka og mýkja dapurt þel karlmannsins. Ásetjið yður sjerhvern morgun að vera glaðværar daginn út; og þó að eitthvað komi fyrir mæðulegt í búskapnum, þá látið það aldrei hafa nein áhrif á háttsemi yðar við mennina. Aldrei skuluð þjer heldur þrátta við þá, hvaða tilefni sem til

kann að bera; þjer hefðuð ekki gengið að 'iga þá, ef þjer hefðuð ekki þókst vissar um, að þeir væru bæði betur að sjer og hyggnari, en þjer. En allra sízt megið þjer til þess hugsa í hjúskaparlífinu, *að koma ætíð fram yðar eigin vilja,* eða ætla yður að leiða menn yðar með ástæðum einum, þar eð fæstir karlmenn munu óska þess, að konum þeirra sje gefið að koma fram ráðríki sínu; því að út af þessu rís ósamlyndi hjóna, og af því að þjer eruð minni máttar, þá hljótið þjer líka að bera lægri hluta. Sá maður, sem lætur konu sína leiða sig, sætir optast fyrirlitningu og álasi; en þjer lofið því líka á brúðarbekknum, að hlýða bændum yðar í öllu, sem vera ber; enda er hlýðni og hollusta mesta prýðin á hverri konu. Æfið yður þá í þessum dyggðum, meðan þjer eruð ólofaðar; því að gæfa yðar á síðan í hjónabandinu er mest og bezt undir því komin, að þjer elskið og virðið menn yðar fram yfir allt, álítið enga ágætari en þá, og aðhyllist þá af öllu hjarta. Sú stúlka, sem

hefur ekki þetta hugarfar, byrjar þegar hjónabandið með hjúskaparrofi. Lærið að þekkja lunderni unnustá yðar, og að stjórna yðar eigin. Takið ekki hart á breiskleika þeirra og yfirsjónum, reynið heldur til að gjöra gott úr því öllu; það er óyggjandi ráð, stúlkur góðar!

## Svar

*frá stúlkunum til piltanna.*

Með ánægju höfum vjer hlustað á brjef yðar, piltar góðir! og vonum, að þjer takið eins vel svari voru. Postulinn Páll hefur án efa satt að mæla, þegar hann segir í brjefi sínu til Efesusmanna: maðurinn sje höfuð konunnar, þó eins og Kristur er höfuð safnaðarins. Engin kona, engin stúlka getur álitið það lægingu fyrir sig, þó hún eigi að lúta yfirráðum karlmannsins, þegar þau eru bundin við þetta skilyrði. Því hver skyldi ekki feginn vilja eiga yfir sjer skynsemina og dyggðina! Sjerhver kona, sjerhver stúlka hlýtur að álíta þessa lofsverðu kosti mannsins svo sem aðalskil-

yrði fyrir allri ást og elsku til hans, hlýtur að telja það sóma sinn að hlýða slíkum manni; enda getur þá verið þess viss, að gæfa hennar er ekki byggð á sandi, heldur á klettföstu bjargi. Fyrsta skilyrði heilsusamlegs hjónabands er þá þetta: „maðurinn hlýtur að gjöra sig verðugan yfirráðanna, sem húsbóndi og húsfaðir, með stöðugri ástundun eptir framförum í vizku og dyggð.“ En ætli hann sjer að brjótast til þessara valda, og leyfa sjer alls konar yfirsjónir, þá hlýtur hann líka að sjá í gegnum fingur við konuna fyrir þær; og sú innbyrðis tilhliðrunarsemi — sem vjer getum eigi kallað annað, en einhvers konar aflátssölu — leiðir auðveldlega til alls konar óreglu í hjónabandinu, sem er því miður allt of almenn, en verður þó aldrei bót mælt. Sje hinn „hágáfaði“ karlmaður í raun og veru fær um að leiða konu sína, hversu fegin mun hún þá ekki lofa honum að leiða sig við hönd með ástarbandi hjúskaparins, án þess að sýna honum nokkurn tíma óráðþægð? Sá maður,

sem er eins og hann á að vera — og vjer játum það með gleði, að vjer þekkjum slíka, þó ekki nema einstaka afbragðsmenn — hann mun aldrei heimta það af konu sinni, að hún sleppi tign þeirri, er hún hefur sem skynsöm vera; nei, miklu heldur mun hann, þegar svo ber undir, taka með ánægju góðum ráðum af henni, þar eð hann er sannfærður um, að enginn maður á jörðunni vill honum eins vel og hún. Æfi hún tilhlýðilega sálargáfur sínar, þá mun honum þykja hún þess verð, að segja henni frá öllu, sem ángrar hann og hryggir; og hennar nákvæmni og ástúð skal veita honum huggun og nýjan styrkleika. Sá maður, sem er eptir guðs hjarta, lætur sjer annt um að gjöra sjer konu sína sem innilegasta og hjartfólgnasta, varast að angra nokkurn tíma þann ástvin sinn, og reynir til að komast æ betur og betur að leyndardómi konulundarinnar; og hann gleðst af því með sjálfum sjer, þegar hann finnur anda konu sinnar skynsaman, frjálslegan og fjörugan. Hendi hann einhver hrös-

un, sem loðir við mannanna börn, þá þiggur hann fúslega hógværa leiðbeiningu af henni, sem hann elskar, og sýnir með ráðþægni sinni, hversu mikils hann virðir hana. Eða getur nokkur sönn hamingja í hjónabandinu sprottið af þeirri eptirlátssemi húsmóðurinnar, sem í raun og veru er ekki annað en meinleysi vinnudýrsins? Getur það verið skylda konunnar, að horfa með þögn og þolinmæði á bresti og yfirsjónir manns síns, og láta sjer þykja alls konar ókostir góðir á honum, einmitt fyrir það að þeir fylgja þeim manni, sem hún er bundin vegna hjúskapareiðsins? Það er rjett að kenna slíkt þeirri konu, sem sjálf vill láta líta á ókosti sína, eins og væru einhverjir mannkostir. Sá sem ekki vill lifa guði og dyggðinni, honum treystumst vjer ekki ráð að kenna. En það vitum vjer, að ef mennirnir eru slíkir sem vera ber, konurnar þvílíkar sem þær eiga að vera, þá er hjúskapurinn það hið fagra og ágæta líf á jörðunni, sem ber ávexti farsældarinnar. Og það eru ekki

neinir forboðnir ávextir, því að sjerhver Eva má rjetta þá að Adam sínum; og hann getur látið sjer fallast vel á þá, og þarf ekki að kvíða, að hann verði fyrir það rekinn út úr Paradís.

## Draumur Jóns bónda.

Jón bóndi var þrítugur að aldri, og var einn af þeim mönnum, sem aldrei eru ánægðir með kjör sín, og sem gjöra alla leiða með sífeldu nöldri og óánægju. Sjaldan var nokkur hlutur eptir hans skapi: veðráttufarið þókti honum ýmist of hlýtt, of kalt, of þurt, of vætusamt; aldrei líkaði honum verðið, sem hann gat fengið í kaupstöðunum fyrir varning sinn, og ætíð þóktu honum útlendu vörurnar of dýrar. Það var eins og allt væri uppi á móti honum, og aldrei tók hann á heilum sjer.

Nábúar Jóns sögðu í skopi um hann, að mikill smiður væri Jón bóndi, því að hann væri einlægt að byggja skýjaborgir; sögðu þeir að öll mæða hans risi út af því, að hann dreymdi á næturnar, að hann væri

orðinn einhver höfðingi, en vaknaði á morgnana, eins og tómur Jón bóndi. Og satt að segja, þá hlýtur það að vera mikið hryggðarefni, að þykjast á nóttunni vera orðinn mikill maður með fjöður í hattinum, en verða á morgnana að setja upp hattgarminn gamla með mórauða kollinum; þetta er að minnsta kosti engu notalegra, en að fara upp úr heitu rúmi niður í ískalt vatn. En hvað sem nú þessu líður, þá var það víst, að búskapur Jóns bónda tók mjög að ganga úr lagi, af því að hann gat ekki skipt sjer af honum, eins og þurfti, fyrir angursemi og óánægju. Hugsjúkur maður getur aldrei gengið að skylduverkum sínum með glöðum anda; og opt kemur ólán yfir þá, sem leitast við að telja sjer trú um, að þeir sjeu ólánsmenn.

Svona var nú ástatt fyrir Jóni bónda, þegar hann kemur einu sinni heim frá stekknum, óánægður með sauðburðinn sjá sjálfum sjer, og öfundsjúkur yfir öllum öðrum. Hann snaraði sjer upp í rúm, og fjell þegar í fasta svefn; þykir honum þá koma til

sín hár kvennmaður, glaðleg útlits og þokkalega búin, og segja: „komdu, Jón bóndi! Jeg heiti Hamingja. Jeg hef lengi heyrt kveinstafi þína, og hef nú ásett mjer, að ljetta af þjer mæðukjörum þínum.“ Hann rís þegar á fætur, setur upp hattinn og gengur á eptir þessum leyndardómsfulla leiðtoga.

Hann þykist nema staður á víðum velli, þar er var hinn mesti manngrúi. „Hjerna“, sagði Hamíngja, og benti á mannfjöldann, „eru margar þúsundir manna, sem fegnir mundu vilja skipta kjörum við þig; og máttu nú sjálfur ráða, við hverja þú vilt helzt skipta.“ Jón bóndi þakkaði henni innilega fyrir; fögnuður skein út úr augum hans, þegar hann sá að mannfjöldinn tók að ganga í röð fram hjá honum, og hann gat varla ráðið sjer fyrir gleði, þegar hann sá einn af sveitungum sínum, sem hann lengi hafði öfundað vegna auðsældar.

„Þarna er maðurinn“, sagði Jón bóndi, „ef jeg má ráða skiptunum.“ Og óðar en Hamingja rjetti upp hendina, kom auð-

maður þessi fram úr hópnum og gekk til þeirra, lagði fram alla lykla að fjárhyrzlum sínum, og alla kaupstaðarreikninga, þar er hann átti mikið inni; og þegar hann var búinn að þessu, ætlaði Jón bóndi að hlaupa heim til sín með þessi fagnaðartíðindi, og afhenda manninum aptur reitur sínar. En hann lypti þá upp fæti, sem allur var bæklaður og hnýttur, og Hamingja sagði: „bíddu við, Jón bóndi! þú færð fótinn með í skiptunum; jeg hef lofað kjörum fyrir kjör; og þessi bæklaði fótur fylgir auði mannsins“. Jón bóndi stóð eins og þrumusleginn, horfði stundarkorn í gaupnir sjer, síðan fleigði hann frá sjer lyklunum og skjölunum og kallaði: „fyrir allan hans auð vil jeg ekki kaupa fótaveiki hans.“

Næsti maðurinn, sem vakti athygli Jóns bónda, var ríkismaður einn, er átti mikinn skipastól, og þiljubát á fiskiveiðum. Jón áleit óskaráð að skipta kjörum við þennan mann. Útvegsmaðurinn gaf honum þegar umráð yfir öllum eigum sín-

um, en sagði honum um leið, að báðir átt-æringar hans væru í langleiði, og þilju-báturinn hefði verið úti í hákallaveiðum á þriðju viku. Þá datt Jóni bónda í hug, að hæpið væri að ganga að eign þessari; því að hann minntist þess líka, að fyrir nokkr-um dögum hafði verið ákaflegur stormur, og hann hefði enda heyrt, að nokkur skip hefðu farizt. Hann varð þess vegna hrædd-ur um þennan skipastól, að hann kynni að vera farinn líka, og sagði, að hann vildi eigi skipta kjörum við þennan mann, því að hann væri í rauninni ekki sælli, en sjálfur hann.

Nú gekk fram ungur maður, kvikleg-ur og sællegur, sem átti fallegustu jörð-ina í sveitinni, og mikið jarðagóz annað; og Jón bóndi hugsaði, að við þennan mann væri þó hagur að skipta. Hann hafði opt öfundað hann af fjáreign hans og stóði, og óskað þess, að hann væri slíkur bóndi sem hann var. En þegar maðurinn hafði lagt fram öll skjöl sín, þá sást það, að flestar jarðir hans voru veðsettar, og kaup-

staða skuldir svo miklar, að bú hans allt mundi vart hrökkva til að borga með. Og allar þessar skuldir átti Jón bóndi að fá með. Þá sagði Jón: nei! nei! kotið mitt er þó ekki veðsett, og jeg er skuldlaus að mestu; jeg kæri mig þess vegna ekki um skiptin.

Eptir þetta buðu sig fram menn hundruðum saman, sem allir vildu skipta kjörum við Jón bónda, sumir með skuldum, aðrir með sjúkdómum, sumir með ónýtum konum, aðrir með óvönduðum börnum. Og Jón komst loksins að raun um það, að það mundi ekki vera hagur fyrir hann, að skipta kjörum við annan, þegar á allt væri litið. Sagði hann Hamingju, að sjálfur væri hann þó heilbrigður og skuldlaus, og mætti því vel vera ánægður með kjör sín.

„Svo farðu þá heim til þín“, sagði Hamingja, „enginn er algjörlega sæll, og fæstir nema í meðallagi. Sjerhver staða hefur sína byrði, sitt andstreymi; sá er sælastur, sem er ánægður með það, sem hann

hefur, og gjörir sjer enga hugsýki út af því, sem hann hefur ekki. Þú getur einungis dæmt um aðra eptir ytra áliti, en sjerð ekki hið heimuglega böl, sem særir brjóst þeirra. Reyndu til að verða sæll, einkum með því að hugsa ekki einungis um sjálfan þig, og fyrir sjálfum þjer, heldur um aðra og fyrir öðrum“.

„Já, sagði Jón bóndi við sjálfan sig, „sá sem elskar aðra, og er aptur elskaður, hann getur verið sæll“, og leit hann glaðlega upp á Hamingju.

Hamingja leit aptur vinsamlega til hans, og tók í hönd hans, svo að hann vaknaði. En Jón bóndi hugsaði um draum sinn, gjörðist glaðvær og ánægður með kjör sín upp frá þessum degi, og varð hinn mesti lánsmaður.

## Blessan Guðs.

Það er ekki vinna vor, sem viðheldur lífinu, heldur blessan Guðs. Guð hefur boðið oss að vinna, og vjer eigum að hlýða honum. En þó að vjer höfum föt og fæði,

þá er það engan veginn að þakka vinnu vorri, heldur gæzku Guðs. Margir vinna baki brotnu, og brestur þó daglegt brauð; aðrir fara sjer hægar, og hafa þó allsnægtir. Drottinn vill einn saman hafa heiðurinn og dýrðina svo sem sá, er einn getur viðhaldið öllum hlutum, og veitt þeim þroska og þrif. Plægðu jörðina í hundrað ár, og vinn eins og berserkur, og vittu, hvort þú getur látið spretta upp úr moldinni eitt einasta puntstrá. Án allrar tilhlutunar af þinni hálfu lífgar Guð frækornið, meðan þú sefur, og leiðir upp af því grasið úr jörðinni fjenaðinum til fóðurs. Þú vinnur fyrir gýg, ef þú treystir því, að þú lifir af vinnu þinni. Þitt er að vinna, en Guðs er að láta þig lifa af vinnunni. Þetta tvennt er eins ólíkt hvað öðru, eins og himinn og jörð, Guð og maður. Guð bauð Adam að eta sitt brauð í sveita síns andlitis. *Án* erfiðis vildi hann ekkert gefa honum; eins vildi hann ekki heldur gefa honum neitt *fyrir* erfiði hans, heldur einungis fyrir sakir sinnar gæzkúríku blessunar. Erfiði lík-

amans er til þess að temja og spekja holdið. Erfiðir þú til þess, þá sjer Guð þjer farborða. En ekki forsorgar hann þig öðruvísi, en önnur dýr jarðarinnar. Hann upplýkur sinni mildu hönd, og seður allt, sem lifir, með sinni blessan. Nú vinnur ekkert dýr beinlínis fyrir fæðu sinni, heldur hefur sjerhvert þeirra sitt starf, sem það leysir af hendi með kostgæfni; síðan leitar það fæðu sinnar og finnur hana. Smáfuglinn flýgur í loptinu, syngur, býr til hreiður, verpir eggjum, ungar þeim út; þetta er hans vinna, en af þessu hefur hann ekki uppeldi. Nautið gengur fyrir plógnum, hesturinn ber bagga, sauðkindin gefur af sjer mjólk og ull; það er þeirra vinna; af þessu lifa þau þó ekki; en jörðin ber gras, og fæðir þau með blessan Guðs. *Lítið á fuglana í loptinu, hvorki sá þeir, nje uppskera nje safna í kornhlöður, og samt fæðir yðar himneski faðir þá!* segir Kristur. Gjörist nú nokkur smáfugl grár á hærur af hugsýki? Ef menn spyrðu hann og segðu: fuglinn minn góði, því ertu svo glaður?

Hvernig getur þú sungið svo inndælt, og stokkið svo ljettfættur stein frá steini? Hvar færðu að borða? Hvor gefur þjer að drekka? Þá mundi hann svara: jeg treysti góðum Guði; hann er skapari minn, og jeg er handaverk hans, hann hefur útbúið náttúruna með fæðu handa mjer, meir en jeg þarf á að halda. Jeg þjóna honum, syng fyrir hann, treysti honum; hann hefur aldrei látið nokkurn smáfugl deya út af í hungri. Smáfuglarnir fljúga fram og aptur fyrir augum vorum, segir Luther, og gjöra oss mönnunum minnkun, svo að vjer mættum fullvel hnegja oss fyrir þeim og segja; mikill spekingur ertu, fuglinn sæll! Jeg má játa, að jeg kann ekki þá íþrótt, sem þú kannt; þú sefur á hverri nóttu i hreiðri þínu án minnstu áhyggju; á morgnana rís þú árla upp, ert glaður og ánægður, sezt niður á einhvern grásteininn, kveður kvæði þitt, vegsamar Guð, leitar að frækorni og finnur það. Blyggðast má jeg mín, gamall hjassinn, að jeg skuli ekki hafa lært að vera eins, svo gott

tækifæri sem jeg þó hef haft til þess! Geti smáfuglinn sleppt öllum áhyggjum, og að því leyti lifað sælu lífi, — og hefur hann þó hvorki akra nje hlöður, fjárhirzlur nje forðabúr; hann syngur, vegsamar guð, er glaður og ánægður, því að hann veit, að einn er sá sem annast hann, sá er heitir faðir vor á himnum, — hvers vegna getum vjer þá ekki gjört það líka, vjer sem getum unnið, yrkt akra, uppskorið ávexti, og geymt þá, þar til þörfin kallar? En það er öðru nær, en að vjer getum hrundið frá oss hinni svívirðilegu áhyggju? Hver er það þó, sem lætur grasstráið og frækornið á sinn stað handa fuglinum, svo að hann getur fundið það? Enginn annar en Guð. Þú hlýtur að erfiða og vinna; en það er ekki vinnan, sem fæðir þig, heldur blessan Guðs. Þar sem Guð leggur ekkert til, þar getur þú ekkert fundið, þó að þú erfiðir og leitir þig dauðan. Ef að Guð byggir ekki húsið, og vakir ekki yfir því, þá verður þar ekkert ágengt; þó þú lokir því með hundrað lásum, þá hverfur

allt úr því, eins og rik fyrir vindi, svo að eigi má vita, hvað af því verður. Hver felur gull og silfur í fjöllunum handa þeim, sem leita þar að því? Hver gróðursetur í akrana öll þau gæði, sem þar koma fram í korni, víni og alls konar aldinum, sem allar skepnur lifa á? Eru það mannaverk? Nei, mennirnir geta unnið að því, en Guð verður að senda yfir það blessun sína, eigi nokkur ávöxtur að verða.

## Nokkrar búskaparhugvekjur.

### *1. Sá sem ekki eyðir miklu, þarf ekki að afla mikils.*

Meðan jeg vildi lifa ríkmannlega, og hafa allt eins og herramaður, hafði jeg margar og miklar áhyggjur, þangað til mjer loksins hugkvæmdist þessi einfalda regla: litlar þarfir heimta lítil aflabrögð. Því öflun hlutanna ollir mikillar áhyggju; en henni hef jeg ætíð verið mjög frábitinn. Til þess þá að losast við hinar mörgu áhyggjur, fór jeg að hugsa fyr-

ir því, að hafa búskapinn sem kostnaðarminnstan, svo að jeg þyrfti ekki að hafa mikla útvegi. Þess vegna hef jeg lagt alla stund á kærleikann, en ekki á yfirlæti, því kærleikurinn sinjar engum þurfandi, og menn geta mettað 20 ástvini með kærleiksmáltíð, þar sem þeir ekki geta satt nema að eins einn gest við herramannsborðið. Áður en jeg komst niður á þessa reglu, þókti mjer minnkun að því, þegar einhver kom til mín og sá, að jeg lifði miður kostuglega; en síðan hefur mjer verið sú stundin leiðust, sem mest hefur átt að gæða mjer.

*2. Reglumaðurinn þarf ekki að vinna eins í sveita síns andlitis, og óreglumaðurinn.*

Af því að maðurinn ljet sigrast af löngun sinni, og át ávöxtinn af forboðna trjenu, þá kom bölvun yfir jörðina, er Guð sagði við Adam: í sveita þíns andlitis skaltu þíns brauðs neyta! En þess konar löngun til hins forboðna er það einnig, þeg-

ar einhver t. a. m. drekkur og svallar annaðhvort heima hjá sjálfum sjer, eða á öðrum bæjum. Til þess að geta haldið uppi þeim sið, þá hlýtur maðurinn að vinna baki brotnu þess á milli, svo hann hafi nokkuð til að svalla fyrir drykkjudagana. Reglumaðurinn þarf þess engan veginn eins við, því hann lifir sparsamlega, heldur girndum sínum í taumi, og gætir þess að eyða ekki meiru, en hann aflar; enda kemst hann betur af, en hinn. Þess vegna er það óyggjandi sannleiki, að reglusamt líferni gjörir búskaparáhyggjuna ljettbæra.

### 3. *Það er hægra að halda spart á, en eyða sjer til örbyrgðar.*

Þegar jeg á tal við menn, sem eru mjög hugsjúkir fyrir þessa lífs nauðsynjum, og halda þeir muni verða húsgangsmenn, þá spyr jeg þá: hvort er hægra að vera reglusamur og sparsamur, eða að eyðileggja aleigu sína og velferð? Þeir svara ætíð: það er auðvitað, að hægra er að eyðileggja sig og allt sitt; það er í

rauninni hægðarleikur. En jeg segi þeim, að jeg álíti þvert á móti; og bið þá að stinga höndinni í þeirra eiginn barm og gæta þess, hvort þeir mundi leyfa börnum sínum að fara sjer að voða, ef þeir gætu hamlað því? Hlýtur ekki barnið, segi jeg, að hafa framið mörg heimskupör, áður en faðir þess sleppir höndinni af því? Eins er því þá varið, nema miklu fremur, fyrir Guði. Maðurinn hlýtur lengi að hafa legið og lifað í óhófi, áður en að því kemur, að Guð sleppi af honum höndinni, og ofurselji hann volæðinu. Þess vegna þarf minna fyrir því að hafa að lifa reglulega, svo að maður geti komizt af, heldur en á þann hátt, að maður steypi sjer í eymd og volæði; og það einmitt vegna þess, að það er beinlínis á móti Guðs vilja, að nokkur skuli glata þeirri velferð, sem hann hefur ætlað honum.

## *4. Góð og ráðvönd hjú gjöra garðinn frægan.*

Jeg hef opt átt tal við menn, sem

hafa kvartað sárt yfir hjúum sínum; en jeg hef sagt þeim, að jeg furðaði mig alls ekki á því, þar eð menn kærðu sig opt miklu minna um hvaða hjú þeir tækju, heldur en um gripi, sem þeir keyptu. Þar sem um fjenaðinn er að gjöra, þá gætir þess margur vandlega, hvort hann sje af góðu kyni. Eins ættu menn, þegar þeir ráða til sín hjú, ekki einungis að gæta þess, að þau sjeu ötul til vinnu, heldur einnig hvort þau sjeu ráðvönd og siðsöm; og byrjar þá um fram allt að hafa tillit til þess, hvorra manna þau eru, og hvernig uppeldi þau hafa fengið. Það er kunnugt hvílík blessun kom yfir hús Faraós fyrir sakir Jósefs; og má af því eina dæmi sjá, hversu mikið hjúin geta gjört til á hverju heimili.

### *5. Hollusta í hjónabandi er vissasti blessunarvegur í búi.*

Þegar jeg hef litið eptir hjúskaparlífi sumra hjóna, þá hef jeg tekið eptir því, að þegar búsældinni hnignar þrátt

fyrir það, þó bæði hjónin láti sjer annt um að halda spart á, og eyða engu að óþörfu, — þá er orsökin til þess sú, að hjúskapartryggðin er ekki haldin, eins og Drottinn bauð, er hann stofnaði hjónabandið. Hann hefur lofað að blessa þessa stjett, en einungis með því skilyrði, að menn hlýðnuðust boðum hans í því efni. Gjöri þeir það ekki, þá bregst blessanin, og með henni þá líka tímanleg vellíðan. Þess vegna tjáir ekki, hvað mikinn auð sem menn hafa, og hvað mikils sem þeir afla, ef þá trúmennskuna vantar, sem maður og kona hafa svarið hvort öðru fyrir augliti Guðs; en aptur er ekki heldur hætt við því, að vanblessan eða volæði vitji þeirra hjóna, sem halda eið sinn órofinn. Menn tilfæra optast ýmsar aðrar orsakir til þess, þegar volæði kemur yfir eitthvert heimili, t. a. m. hvorugt hjónanna voru miklir búmenn, eða aðrir menn hafa á einn eður annan hátt ollað þeim tjóns. En jeg fyrir mitt leyti trúi þessu varlega, og spyr mig heldur fyrir um það, hvort samkomulag

hjónanna hafi verið eins og vera bar, því sje það ekki, þá er það ætíð orsökin til volæðisins.

### 6. *Innbyrðis tilhliðrunarsemi hjóna er ómissandi í hússtjórninni.*

Jeg sagði einu sinni við hjón við víst tækifæri: þið kannist líklega við máltækið: „sá lætur undan, sem vitið hefur meira.“ Þess vegna þegar eitthvert óskynsamlegt æði grípur manninn, en konuna ekki, þá verða menn að heimta það af henni, að hún hafi vit fyrir honum, og láti undan. En vilji svo óheppilega til, að bæði hjónin sleppi vitinu undir eins, þá verða áflog og riskingar. Geti þá annaðhvort þeirra komizt til sjálfs sín, og vitkast í tíma, þá hlýtur það að láta undan hinu; og þá hverfur öll háreysti og sættir komast á. Af því nú að maðurinn er höfuð og herra heimilisins, og þess vegna bæði á að hafa, og hlýtur að vilja hafa mest vitið, þá er það skylda hans, að láta tíu sinnum eins mikið undan konunni, eins og hún undan hon-

um, og það einmitt vegna máltækisins gamla, sem reynslan hefur sýnt, að er satt.

### *7. Enginn húsbóndi má ætla sjer, að koma fram vilja sínum með harðneskju og ofbeldi.*

Jeg spurði einu sinni menn, sem til mín komu, hvort þeir vissi, hvernig rjettur húsbóndi ætti að vera. Jeg vissi til að þeir álitu, að sá sem væri húsbóndi, ætti aldrei að þurfa að vægja til; að kona, börn og hjú væri skyldug til að sitja og standa eins og hann vildi, og þegar út af því bæri, þá mætti hann taka til sinna ráða og neyta myndugleika síns. Þetta kennir þó ekki eptirdæmi Krists. Það var viðkvæði hans: verði ekki minn vilji! Þó hann hefði hið æðsta vald, þá hefur hann samt gefið oss hið fegursta dæmi upp á vægð og umburðarlyndi. Hann var þolinmóður enda við sína vestu fjandmenn, og með ofbeldi reyndi hann aldrei að koma neinu fram. Af því nú sá einn er rjettur húsbóndi, sem reynir að feta í fótspor Krists, þá

hlýtur hann að hafa fyrir aðalreglu hógværð og umburðarlyndi Krists, og opt og tíðum sætta sig við það, þó vilja hans verði miður framgengt. En eins hægt og það er að gjöra sjer skiljanlegt, hve holl og heilsusamleg þessi regla er, eins torvelt veitir flestum að lifa eptir henni.

*8. Enginn maður hefur rjett til að beita valdi og hörku við konu sína, til að neyða hana til hlýðni.*

Margir menn álíta það sjálfsagt, að þeir megi heimta hlýðni af konum sínum, eða þá að öðrum kosti neyða þær til hennar með valdi. Þegar þeir eru spurðir að, á hverju þeir byggi þessa reglu, þá vitna þeir til þess, sem skrifað stendur: „maðurinn er kvinnunnar höfuð.“ En jeg svara þeim því: höfuðið er þó ekki ætlað til þess, að menn skuli brjótast um á því, eða berjast með því, eins og hrútar, heldur til þess að menn skuli íhuga með greind og gætni. Af því nú að maðurinn er einmitt kvinnunnar höfuð, þá sæmir

honum sízt, að beita hörku eða láta óðslega við hana; hann á þvert á móti að neyta vitsins, eins og Páll segir: „Þjer menn, búið saman við konur yðar með skynsemi“! Þess vegna hæfir manninum hvervetna að fara blíðlega að konu sinni, svo að þau geti lifað saman í friði og spekt, án þess að gefa af sjer hneixli. Og, eins og áður er sagt, af því að maðurinn á að hafa mest vitið, þá er það þeim mun heldur skylda hans að vægja til. Þessu mótmæla menn að vísu með orðum ritningarinnar, að konurnar eigi að vera mönnum sínum undirgefnar. Jeg veit það, og játa satt að vera; en það sannar engan veginn, að maðurinn hafi rjett til að kúga konuna til hlýðni við sig. Vilji konan breyta, eins og sannkristinni konu sæmir, þá lætur hún undan skynsamlegum vilja manns síns; en vilji hún ekki gjöra það, þá getur hann ekki kúgað hana til þess. Að sönnu segir ritningin: „gjörið yður jörðina undirgefna! drottnið yfir öllum dýrum í loptinu, sjónum og á jörðunni“! en

hvergi stendur: drottnið yfir konum yðar, og gjörið yður þær undirgefnar! Að sönnu segir ritningin konunum: „Verið undirgefnar“! En hún segir ekki mönnunum: þegar konur yðar vilja ekki vera undirgefnar, þá neyðið þær til þess með valdi!

Þess vegna hefur maðurinn engan rjett til þess að kúga konu sína til hlýðni við sig, nema svo sje, að hann álíti hana eins og skynlausa skepnu, en ekki eins og sinn líka; og þá þyrfti eptir því að koma upp nýju kynferði í dýraríkinu.

### 9. *Konan á að varast iðjuleysi og óhóf, nöldrunar- og sífrunarsemi.*

Daginn eptir að dóttir mín ein giptist, og átti að fara burt frá mjer, sagðist jeg geta gefið henni til ferðarinnar eina hugvekju, er kötturinn minnti mig á, sem þá lá einmitt undir borðinu í stofunni. Jeg bað hana að gefa gætur að því, hvernig kisa væri og vildi helzt vera, svo að hún gæti þess betur varast að verða henni lík. Hún furðaði sig yfir þessu, og spurði mig

hvað jeg meinti með því? Jeg svaraði henni: kjettinum þarna þækti vænst um, ef hann allt af hefði eitthvað gómsætt til að sleikja og naga; og þess á milli vill hann helzt flatmaga undir borðinu og sofa; síðan, þegar hann vaknar, skrækir hann og mjálmar, þangað til hann fær eitthvað til að sleikja. Reynslan hefur kennt mjer, að mörg kona í húsi sínu á dável sammerkt við þess konar letilegt, sællíft, sísuðandi og mjálmandi dýr. Þær þykjast sumsje ekki eiga að þurfa, að drepa hönd í kalt vatn, heldur eigi að hafa svo náðuga og góða daga, sem þær vilja; og þess á milli fylla þær eyrun á mönnum sínum með sífeldu bónakvabbi um hitt og þetta, svo að þær geti lifað eptir vild sinni. Mjer var nú um það hugað, að vara dóttur mína elskulega við þessum ljóta og leiða vana; og með því að ítreka hjer orð mín við hana, hugsaði jeg, að jeg gæti, ef til vildi, gefið einhverri húsmóður góða hugvekju Jeg bið hana þess líka, að álíta ekki þessar yfirsjónir lítilfjörleg-

ar, eða aðvörun mína óþarfa; því þess konar yfirsjónir olla fyr eða seinna óánægju í hjónabandinu, og þá undir eins óhamingju fyrir það hús, þar sem konan á að vera bezti dýrgripurinn og mesta prýðin.

### *10. Um barna uppeldi.*

Að því leyti sem þarf að halda á hörðum aga og hyrtingu í barna uppeldinu, þá er það skylda föðursins, fremur en móðurinnar, að skipta sjer af slíku. Páll leitar líka til feðranna í því efni, en ekki til mæðranna. Það er og optast svo, að börnin bera miklu meiri ótta og virðingu fyrir föðurnum. Konan er eptir eðli sínu lítilsigldari; og þess vegna er líka agi móðurinnar áhrifaminni, en föðursins. Móðurinni er ætlað að sýna af sjer ástríki og blíðu, og með henni getur hún áunnið sjer hylli og hlýðni barnanna; en hyrtingu ætti hún að hafa við svo sjaldan sem verður. Af því að börnin eiga sífelt að venjast hennar blíðu umönnun, og svo margvíslegum merkjum um hana, þá er þeim það nægileg

hegning, ef hún með nokkurri alvöru sinjar þeim um þetta, þegar þau eru óhlýðin; með því ávinnur hún meir hjá börnunum, en með hörðum ávítum eða hýðingum.

Ekki mega heldur hyrtingar föðursins vera harðar, nema ýtrasta nauðsyn krefji, — og þá því að eins, að bryddi hjá barninu á einhverjum hættulegum lesti, sem ekki verður útrýmt með góðu, — og þó er, ef til vill, skoðunarmál hvort líkamleg hegning er æfinlega ráðleg. Höggin gjöra sumum börnum ekki annað, en espa og stæla lund þeirra. Því jafnvel þó það eigi heima hjá öllum börnum, að þau sjeu getin í synd og fædd í yfirtroðslum, og sjeu eptir eðli sínu reiðinnar börn, þá bryddir þó þegar í æskunni á miklum mismun í þessu tilliti, svo að sum börn sýnast bera með sjer meira tilefni til þrjózku, heldur en sum. Opt ber á þessum mismun á sama heimili, meðal barna af sömu foreldrum, án þess hægt sje að gjöra sjer grein fyrir því, hvers vegna sum af börnunum eru óstýrilátari og spiltari, en sum. Þetta

er þó sá hlutur, sem èinnig góðir og guðhræddir foreldrar fá að reyna. Slíkt ollir þeim mikils hugarangurs og órósemi, einkum þegar allur agi og umvöndun sýnist árangurslaus. En þeir eru, ef til vill, þrátt fyrir alla þeirra ást og umönnun sjálfir skuld í því, þar eð þeir hirða ekki um að hagnýta hið vissasta og bezta uppeldismeðal, — en það eru *fyrirbænir*.

Jeg átti meðal barna minna einn son, sem var, ef til vill, bezt gáfaður af systkynum sínum, en leit út fyrir að vera að því skapi illa innrættur og óvandaður. Jeg hafði reynt til við hann með öllum ráðum, sem ást og alvara gat upphugsað; en ekkert tjáði, svo jeg var orðinn hugsjúkur um barnið, og ráðalaus. Þá kom mjer loks til hugar það ráðið, sem jeg treysti að mundi hrífa. Jeg snjeri mjer í innilegri bæn til Guðs fyrir barni mínu, og bað fyrir því með fullri djörfung vonarinnar og trúarinnar; enda ljet það sjer ekki til smánar verða. Nokkrum tíma eptir lagðist drengurinn í þungan sjúk-

dóm, og lá margar vikur í harðri innvortis baráttu, án þess hann talaði eða bærði á sjer til muna. Einu sinni settist hann þá upp í einhverju fáti, fórnaði upp höndum og kallaði: *fyrirbænir föður míns umkringja mig eins og fjöll!* Eptir það tók að lina hans innri barátta, og vjek burt fyrir blíðum friði og ró; sjúkleikinn fór batnandi, og sonur minn varð alheill til sálar og líkama. Upp frá því var hann eins og annar maður, svo jeg þekkti hann ekki hjá því, sem áður var; hann fór að mjer virtist dagbatnandi, og nú er hann mesta gleði mín í ellinni.

## Von og ótti.

Lofanir vonarinnar eru miklu inndælli fyrir hugann, en nokkrar ilmjurtir fyrir vitin; en hótanir óttans eru hræðilegar fyrir hjartað.

Láttu samt ekki vonina tæla þig, nje óttann fæla þig frá að gjöra það, sem rjett er; þá skaltu vera maður til að mæta hverju, sem að höndum kemur.

Ótti dauðans er ekki skelfilegur fyrir góðan mann. Varastu allt sem illt er, þá skaltu ekki þurfa að hræðast neitt.

Láttu skynsamlegt hugrekki örfa kappsmuni þína í öllu verki; örvæntir þú um góð endalok, þá skulu þjer ekki heldur hlotnast þau.

Hræð ekki sálu þína með fánýtum ótta, og láttu ekki huga þinn bila fyrir tóman heilaspuna.

Hræðsla veldur slisi, en vongóður maður bjargar sjer sjálfur.

Eins og strússfuglinn felur einungis á sjer höfuðið, þegar hann er eltur, en forðar engu öðru, eins leiðir huglaus maður hættuna yfir sjálfan sig.

Ef þú álítur eitthvað óvinnandi, þá skal hugleysi þitt láta þjer að því verða; en sá, sem er öruggur, sigrar alla örðugleika.

Heimskinginn hleypur eptir fánýtri von, en hygginn maður eltir hana ekki.

Hvað sem þú girnist, þá ráðfærðu þig fyrst við skynsemina, og láttu aldrei von

þina ná út yfir vebönd sannsýninnar; þá skulu öll fyrirtæki þín heppnast, og svikin von aldrei særa hjarta þitt.

## Gleði og sorg.

Láttu ekki gleði þína vera svo ofsalega, að hún blindi vitið, nje sorg þína svo þunga, að hún beygi hugann. Heimur þessi veitir hvorki nokkurt hnoss svo ágætt, nje leggur á nokkurt böl svo þungt, að þú þurfir til muna að víkja upp eða niður fyrir jafnaðargeð róseminnar.

Sko! þarna stendur *Gleðihúsið*, það er litað utan og gljáir á það; þú getur þekkt það á glaumnum og glaðværðinni, sem heyrist þaðan.

Húsmóðirin stendur sjálf í dyrunum, og kallar hátt á alla, sem fram hjá fara; hún syngur og hlær hvervetna.

Hún býður þeim að smakka unaðsemdir lífsins, og segir þeim, að þær fáist hvergi nema hjá sjer.

En gakk ekki inn fyrir húsdyr henn-

ar, og samlaga þig ekki þeim, sem venja þangað komur sínar.

Þeir nefna sig sjálfir Gleðinnar börn, þeir hlæa og sýnast ánægðir; en athafnir þeirra eru heimskulegar og fíflslegar.

Þeir eru hlekkjaðir höndum saman við ógæfuna, og vegur þeirra leiðir til ódyggða; hættur umkringja þá, og glötunar djúpið gín fyrir fótum þeim

Líttu nú aptur fyrir þig, og horfðu á *Sorgarhúsið* þarna upp í dalnum, eikurnar skyggja á það, og fela það fyrir augum manna.

Brjóst hennar er þrútið af stunum, munnur hennar bólginn af kveini; það er yndi hennar að sýta yfir mannlegri eymd.

Hún virðir fyrir sjer algenga atburði lífsins og grætur; breiskleika og skeytingírleysi mannsins hefur hún sí og æ á vörunum.

Hvervetna þykist hún sjá einhverja ógæfu vísa; allt sem hún lítur á, tekur eins og skuggasvip af sortalit sálar hennar, og

undir kveður í híbýlum hennar dag og nótt af eymdaróði.

Komdu ekki nærri húsi hennar; andi hennar er eitraður, hann skrælir ávöxtinn og visar blómið, sem gjörir bæði skraut og skemmtun í garði lífsins.

Þegar þú sneiðir hjá Gleðihúsinu, þá láttu þjer ekki verða reikað of nærri þessum skuggalegu híbýlum; þræddu með gát meðalveginn, sem skal leiða þig hægt og jafnt upp í lund *Ánægjunnar*.

Þar býr friður, tryggleiki og rósemi; hún er glöð en ekki gáskafull, alvarleg en ekki þunglynd; hún skoðar gleði og sorg lífsins með stöðuglyndi og jafnaðargeði.

Hjeðan skaltu, eins og ofan af háum hól, horfa á heimsku og eymd þeirra manna, sem annaðhvort af hóflausri kæti setjast að hjá glöðum og glymjandi fjelagsmönnum, eða þá af hugsýki og þunglyndi lifa alla æfi sína, til þess að barma sjer yfir sorg og mæðu mannlegs lífs. Þú skalt horfa

á hvorttveggja með viðkvæmni, og víti þeirra skulu þjer að varnaði verða.

## Kristilegt heimili.

Það er sjaldsjeð á jarðríki! Það er sjaldgæft að finna þar sannkristið heimili, það heimili, er segja megi ekki einungis um húsföðurinn, eins og sagt er um konungsmanninn í guðspjallinu: *hann trúði sjálfur*, heldur megi líka bæta því við, sem þar stendur: *og allt hans hús*. Og þó þekki jeg enga stöðu, er jeg vildi heldur kjósa mjer, en að vera húsfaðir á kristilegu heimili, og eiga að lifa innan um kristileg hjú; jeg þekki engan hlut, sem sje heillavænlegri og heilsusamlegri fyrir nokkurt heimili, hvort sem það er meiri eða minni háttar, heldur en einmitt það, að allir á heimilinu sjeu sannkristnir og guðhræddir. Það er nú varla að gjöra ráð fyrir því, að nokkur geti með sanni sagt þetta um heimili sitt; en eigi að síður sjá þó allir, að þetta hlýtur að vera mikil og ómetanleg blessan. Hvor skyldi

ekki heldur vilja koma á það heimili, þar sem er fyrir annar eins maður og Abraham, kona eins og Sara, börn eins og Ísak, hjú eins og Elíeser, heldur en á annað eins heimili og Pótifars, þar sem hússmóðirin er lastafull, eða Samúels, þar sem faðirinn er guðhræddur, en synirnir óguðlegir? Verðum vjer ekki þeirri stundinni fegnastir, sem vjer komumst burt frá því heimili, þar sem oss mætir ekki annað, en ósiðsemi og búraskapur; þar sem ósamlyndi er á milli hjóna, börnin lifa í sjálfræði, og alast upp í óstýrilæti og óhlýðni; þar sem alls konar óregla og óþrifnaður lýsir sjer hvervetna? Þykir oss þar á móti ekki sönn ánægja að koma á það heimili, þar sem reglusemi og þrifnaður lýsir sjer á öllum hlutum; þar sem oss mætir ekki annað en alúð og ástsemi; þar sem sæla sannfarsæls hjúskapar skín á báðum hjónunum; þar sem vel uppalin og siðsöm börn koma utan að oss á allar hliðar?

Jú, það er sjerhverjum manni sönn ánægja að koma á heiðvirt heimili. En það

er eins fyrir heimilunum og hverjum einstökum manni. Margir menn eru atorkusamir, iðjusamir, góðviljaðir og í vissu tilliti ráðvandir, en sára fáir sannkristnir. Eins eru líka mörg heimili í mörgu tilliti mjög virðingarverð, en sára fá eru þau sannkristin. Og þegar kristilega guðhræðslu vantar á heimilinu, þá vantar það, sem mest á ríður, þá vantar hina rjettu og sönnu blessun; því hana er ekki að finna, nema á því heimili, þar sem húsfaðirinn sjálfur trúir, og allt hans heimafólk. Þar eiga sjer ekki einungis stað hinar sjerstaklegu dyggðir, t. a. m. samlyndi hjóna, hlýðni barna, hollusta hjúa, heldur eru bæði þessar dyggðir og allar aðrar sameinaðar hjartanlegri auðmýkt, og sprottnar upp af beztu rót, þar sem er elskan til Guðs og Frelsarans. Á kristilegu heimili lifir ekki nje lætur hver og einn, eins og sjálfum honum líkar bezt, heldur er fyrst og fremst spurt að því, hvor Guðs vilji sje, og sannarlegt gagn allra yfir höfuð. Sjerhver ástundar að þjóna með trú og dyggð í sinni

stöðu og gegna öllum skyldum sínum, ekki fyrir sakir heiðurs af mönnum, heldur vegna Guðs. Hvort sem þeir eta eða drekka, eða hvað helzt sem þeir hafast að, þá gjöra þeir það allt Guði til dýrðar.

Á kristilegu heimili er sjerhver dagur byrjaður og endaður með bæn og ákalli, annaðhvort af öllum sameiginlega, eða af hverjum einstökum út af fyrir sig. Yfir máltíð minnast allir á og kannast við Guðs föðurlegu gæzku, sem á hverjum degi gefur oss daglegt brauð án vorrar eigin verðskuldunar. Guðs orð er iðuglega haft um hönd, lesið og ígrundað; guðshús er haft í heiðri, og hvíldardagurinn helgur haldinn samkvæmt skipun Drottins. Einn og sjerhver á heimilinu án undantekningar lætur sjer annt um, að laga allt sitt hugarfar og háttalag í öllum greinum æ betur og betur eptir Guðs heilaga vilja. Hjónin bæði hafa hann fyrir augum sjer í öllu, sem þau hafast að, eru við verk sitt með kyrrð og spekt, gæta efna sinna ráðvandlega með iðjusemi og reglusemi, una högum sínum með

nægjusemi og undirgefni undir vilja hins Hæsta. Guðs vilja samkvæmt eru börnin uppalin, snemma látin læra að þekkja og elska Frelsarann, og innileg löngun innrætt til að þóknast honum í öllum hlutum. Guðs vilja samkvæmt ganga hjúin að öllum sínum verkum, ekki með augnaþjónustu, heldur jafn holl og dygg gagni húsbændanna, hvort sem þeir sjá til, eða ekki. Enn fremur leitast allir á heimilinu við, hvor í kapp við annan, að gjöra hvor öðrum lífið ánægjusamt með þjenustusemi, tilhliðrunarsemi og ástsemi í umgengni.

Hvílík hamingja og gleði hlýtur þá ~~ekki~~ að búa á kristilegu heimili! Hvílíkur friður og samþykki drottnar þar ~~ekki~~! Hlýtur ekki sjerhver, sem þangað kemur, að segja, eins og Pjetur á fjallinu helga: hjer er gott að vera! hjer viljum vjer búa!

## Meðaumkvunarsemi.

Eins og vorið stráir blómgresi og rósum á jörðina, og eins og blíða sumarsins

veitir uppskeru gróðanum vöxt og þroska, eins breiðir bros meðaumkunarseminnar blessan yfir raunamanninn.

Sá sem aumkar annan, vinnur til meðaumkunar sjálfur, en sá sem er án meðaumkunar sjálfur, verðskuldar hana ekki af öðrum.

Skurðarmaðurinn viknar ekki, þó að lambið jarmi undir hnífnum, og grimmhjartaður maður kemst ekki við af nokkurri eymd.

En tár hins viðkvæma eru sætari en daggardropar, sem drjúpa af blómgresi niður á jörðina.

Stíkktu ekki upp í eyrun á þjer við kveini fátæklingsins, og stæl ekki hjarta þitt á móti neyð hins saklausa.

Þegar hinn föðurlausi kallar á þig, þegar hjarta ekkjunnar vanmegnast, og hún biður þig um hjálp með grátandi tárum, þá aumkvaðu hana í raunum hennar, og rjettu út hönd þína til að hjálpa þeim, sem hjálparlausir eru.

Þegar þú sjerð á vegi fyrir þjer klæðlausan aumingja, skjálfandi af kulda og húsnæðislausan, láttu þá góðgjörðasemina

ljúka upp hjarta þínu, láttu vængi kærleikans varðveita hann frá dauða, svo að þú frelsir sálu sjálfs þín frá dauðanum.

Hvernig getur þú — mitt í því að fátæklingurinn stynur á sóttarsænginni, mæðumaðurinn andvarpar í raunum sínum, gamalmennið leitar líknar þinnar með grátandi tárum, — hvernig getur þú mitt í því sökkt þjer niður í óhóflegar unaðsemdir, verið kærulaus um eymd þeirra, og tilfinningarlaus fyrir andvörpum þeirra?

## Góðgjörðasemi.

Þegar þú íhugar vanmátt þinn, og þreifar á þínum ófullkomleika, þá kannastu, maður, við gæzku hans, sem gaf þjer skynsemina, gæddi þig málfærinu, og setti þig í samfjelag með öðrum til innbyrðis hjálpar og aðstoðar.

Þú getur ekki lifað án hjálpar annara; og það er fjelagslífið eitt, sem lætur þjer í tje föt og fæði, og hentugt húsaskjól, varðveitir þig fyrir óskunda, og veitir þjer að njóta gleði og ánægju lífsins.

Þess vegna er það skylda þín að vera öllum velviljaður, og sannur hagur fyrir þig að eiga alla fyrir vini.

Eins og sætan eym leggur af blómi ilmjurtanna, eins leiða góðverk af hjartalagi hins góðgjörðasama.

Hann býr yfir friði og rósemi í brjósti sínu, og fagnar af heppni og hamingju nábúa síns.

Hann hlustar aldrei á rógburð um aðra, heldur angrast í huga af brestum og yfirsjónum þeirra.

Hann leitar lags að gjöra öðrum gott, og sætir sjerhverju tækifæri til þess; að frelsa aðra úr vandræðum er hans líf og yndi.

Hans veglynda sál óskar öllum mönnum hamingju, og hans ágæta hjarta kappkostar af öllu megni að efla hana.

## Mannelska.

Sæll er sá maður, sem hlynnir að frækorni viðkvæmninnar í brjósti sjer, ávöxt-

urinn af því skal verða góðgjörðasemi og mannelska.

Góðverkin skulu renna út frá hjarta hans, eins og frá uppsprettu, og streyma út meðbræðrum hans til bjargar og blessunar.

Hann hjálpar fátæklingnum í bágindum hans, og fagnar af því að efla farsæld sjerhvers manns.

Hann atyrðir aldrei nábúa sinn, og trúir ekki því, sem hatur og öfund segja; ekki hefur hann heldur eptir lastmæli þeirra.

Hann fyrirgefur öðrum bresti þeirra, og hrindir þeim sjer úr minni; illgirni og hefnd eiga sjer aldrei stað í hjarta hans.

Hann endur geldur ekki illt, og hatar eigi óvini sína, en hrindir af sjer ójöfnuði þeirra með vinsamlegum áminningum.

Sorg og mæða meðbræðra hans vekja meðaumkvun hans; hann reynir til að ljetta af þeim byrðinni; og það er bezta umbun hans, þegar honum tekst það.

Hann jafnar misklíðir, sefar æði hins

reiða, og afstýrir þeim slisum, sem leiða af illdeilum og ofsa.

Hann eflir frið og góðvilja í nágrenni sínu; enda er hans ávallt getið að góðu, og minnst með virðingu.

## Baðstofutal föður míns

(eptir barnsminni).

Að hafa taum á girndum sínum og geðshræringum, að halda hóf í gleði og sorg, að stjórna sjálfum sjer í meðlæti og mótlæti; að hafa ávallt fyrir augum hina háleitu ákvörðun sinnar ódauðlegu sálar, það, að fullkomna sjálfan sig sem mest í andlegu og siðferðislegu tilliti; að lifa svo þrátt fyrir lof og last, hag og óhag, elsku og hatur, rjetta og ranga dóma, að maður sje ríkur af góðum verkum, það er tignarljómi mannlegrar tilveru, það er dýrðarkóróna hins jarðneska lífsins.

Einungis hjarta, sem elskar hið góða, einungis rósöm samvizka; einungis hreint, guðrækilegt hugarfar, einungis ráðvönd, flekklaus breytni veitir oss hug og styrk,

gjörir oss ánægjusamt og ljúft, að ganga inn í hið ókunna land vonarinnar og trúarinnar, sem dauðinn lýkur upp fyrir oss. Einungis þetta hugarfar og þessi breytni heimilar oss hlutdeild í þeirri arfleyfð guðsbarna í ljósinu, sem hann hefur geymda þeim, er elska hann; sem hafa brotizt á fram í gegnum lof og last, með árvekni og bæn, með baráttu á báðar höndur, og aldrei þreyzt á vegferðinni að hugsa, velja og breyta, viturlega, vel og ráðvandlega.

Engin jarðnesk gleði er staðföst, og það er eins og Drottinn, sem sviptir oss henni, áður en vjer höfum fengið að njóta hennar, sje sífeldlega að brýna það fyrir oss, að hjer sje ekki vor rjetti bústaður. Ástkærar myndir verða á vegi fyrir ferðamanninum, en þær líða skjótt í hvarf; geðfeldir hlutir bregða fyrir, sem hann vildi mega halda í, — en það tjáir ekki! straumur tímans hrindir honum á fram, því að hjer á jörðu hefur hann ekki varanlegan samastað; og fjærri öllum jarðneskum unaðsemdum, sem ljeku í kringum hann, hlýtur hann að fara í gegnum dimman, skuggalegan dal, til þess að komast upp í hinar sólbjörtu hæðir hinu megin, þar sem efst uppi ljómar og skín kóróna dýrðarinnar.

---